# KVÖLDVAKA Í SVEIT.

Samtal

eptir **Magnús Grímsson**.

---

Fljóta raun skalt þú
við fleirst hafa,
það er grunsamligt gjörist;
leyndir lestir
þeir er lengi felast
gjöra mörgum mein.

Hugsvinnsmál.



---

**Reykjavík 1848.**

Prentað í prentsmiðju landsins, af Helga prentara Helgasyni,
á kostnað Egils Jónssonar.

## Fólkið, sem talar:

*Jón*, heimabóndi.

*Guðrún*, kona hans.

*Árni*, } börn þeirra.
*Haldóra*, }

*Þórður*, vinnumaður.

*Jórun*, } vinnukonur.
*Sigríður*, }

*Haldór*, bóndi frá öðrum bæ.

*Guðmundur*, smali.

(Það er búið að kveikja í baðstofunni, og fólkið er tekið til vinnu sinnar.

Baðstofan er í þremur stafgólfum, og er eitt stafgólfið afþiljað. Þar er hjónarúmið inni. Þar situr bóndinn, og er hann að tala við gest sinn, bónda frá öðrum bæ í sömu sveit. Inni hjá þeim er líka sonur heimabóndans, og er hann að lesa í bók. Fyrir framan húsdyrnar eru fjögur rúm, tvö og tvö hvorumegin. Þar situr konan á innra rúminu öðrumegin, og er hún að spinna þráð á rokk. Dóttir hjónanna situr hjá henni á kistli; hún er að prjóna. Á rúmunum á móti þeim sitja vinnukonurnar. Þær eru tvær, og er önnur að tæa ull, en hin að spinna band á rokk. Framar í baðstofunni er vinnumaðurinn, og er hann að flètta reipi. Smalinn sefur. Lampi hángir í húsdyrastafnum. Baðstofan er hreinleg og alt inni er þrifalegt).

Jón. Það geingur annars öldúngis yfir mig, Haldór minn, hvað yfirvöldunum helzt allur

þremillinn uppi, til að mynda prestunum. Það getur þó einginn annað sagt, en að það sè galli á þeim góðu mönnum, hvað þeim er hætt við að drekka. Það er nú ósköp að vita til þess, og þó dettur eingum í hug að fást um það.

Haldór. Já, það er meira en satt, Jón minn; það er ljótt, hvað þeim líðst alt yfirvöldunum, og læt eg þó það vera, að þau sèu nú ráðrík og ágjörn, eins og þau líka eru, helzt prestarnir, en þegar yfirmennirnir eru nú líka drykkjumenn og sóðar, þá er nú ekki von á góðu. Á öllum fer það illa, að drekka, en þó lángverst á presti. Eg tala nú ekki um það, þegar prestinum fatast í embættisverkum sínum, af því hann er svo drukkinn, eins og við höfum þó vitað dæmi til ekki alls fyrir laungu. Það er líka reynsla til fyrir því, að þar sem presturinn er drykkjumaður og óreglusamur, þar verða hinir eins; því eptir höfðinu dansa limirnir. Þetta sjá nú allir heilvita menn. En það er nú fleira, en drykkjuskapurinn, sem mèr þykir óþolandi á presti; það er líka ágirnd og sèrplægni, sem þeim hættir of mjög við, og þeir ættu þó sízt að hafa mikið af. Eg gleymi því aldrei, þegar prest-

urinn tók spesíu fyrir barnsskírn af veslíngs ekkjunni í Bæ, sem var svo bláfátæk, og öldúngis nýbúin að missa manninn sinn. Og það var það versta við það, að hann lèt eins og hann hefði ekki hörku í sèr til að taka eins mikið af henni og hann ætti. Þetta og annað eins er öldúngis óþolandi.

Jón. Já, það er víst; það ætti ekki svo að vera. Enda er nú þetta og annað eins ekki mjög algeingt.

Haldór. Það veit eg vel, og því fer nú betur. Annars held eg maður mætti óska, að einginn prestur væri til. Þó mun það vera helzt til algeingt, að prestarnir eru drykkjumenn, og ágjarnir.

Jón. Það held eg nú líka. En eg held það sè nú klaufaskapur okkar bændanna, að við gerum ekki við sumu af þessu. Eg vil nú taka til dæmis drykkjuskapinn; því hann er mèr lángverst við, á hverjum sem er. Ef við tækjum okkur nú saman hèrna í sveitinni, og einginn okkar gæfi prestinum okkar brennuvín, þá held eg, að hann mundi bráðum hægja á sèr; því mest drekkur hann hjá öðrum, þegar hann er á ferð.

Heima drekkur hann ekki mikið, nema ef einhver okkar hefur dropa með sèr, og gefur honum.

Haldór. Það segir þú satt, og það get eg aldrei fyrirgefið okkur bændunum, hvað við erum gjarnir á að gefa prestunum brennuvín. Þó er verst að flytja það með sèr til kirkjunnar, og fylla hann strax eptir messuna.

Jón. Það er satt, verst er það, en það vitum við þó, að það gera sumir. En heldurðu nú ekki, að það væri reynandi, Haldór minn, að við feingjum sveitúnga okkar með okkur til þess að hætta nú þessum ósið? Við getum sýnt þeim, hvað ljótt það er, hvað margt ílt það leiðir af sèr, og hvaða hagur það gæti verið fyrir okkur að spara okkur þessi góðu brennuvínskaup. Það dregur þó fátækan að kaupa marga potta af brennuvíni núna; það er ekki svo ódýrt.

Haldór. Reyna má það, og feginn vildi eg það kæmist á. En eg er samt hræddur um, að það verði óvinsælt.

Jón. Eg er raunar viss um það, að það verður kallaður svíðíngsháttur. En það er mèr sama.

Eg vildi annars helzt, að sveitin okkar væri öll komin í bindindisfèlag.

Haldór. Já, það segi eg með; það vildi eg. En eg held þó, að það sè ekki vert fyrir okkur að byrja á að fá menn í það núna fyrst.

Jón. Nei, það er varla til neins meðan presturinn okkar hættir ekki með öllu að drekka, og eg vil heldur, að við hreifum öldúngis ekki við því, en fara til þess, og spilla þá ef til vill fyrir því.

Haldór. Það er líka betra. En hvernig eigum við nú að koma okkur fyrir með þetta?

Jón. Mèr dettur í hug að það sè nú bezt að fara hægt af stað: taka fyrir einn og einn, og reyna að fá hann á sitt mál; svo, þegar við erum orðnir margir, þá að tala allir saman, og vita hvað við getum þá. Við finnumst æfinlega við kirkjuna, og getum þá talazt við, og sagt hvað hvorum okkar hefur geingið.

Haldór. Já, það er satt; mèr lízt vel á þetta.

Jón. Sýnist þèr nú ekki eins og mèr, að sóknarmennirnir sèu nokkuð skuld í því, þegar prestarnir drekka?

Haldór. Jú, svo er það, að minnsta kosti, hjá okkur.

Jón. Þessvegna sýnist mèr, að við bændurnir getum ekki með góðri samvizku fyrirdæmt prestana fyrir það, þó þeir drekki, fyrr en við erum hættir, að gefa þeim brennuvínið, og svo er með fleira, sem við bregðum þeim um.

Haldór. Altènd má maður þó ætlast til, að þeir hafi vit fyrir sèr, þessir lærðu menn.

Jón. Það er nú sjálfsagt; það efast nú einginn um. En eins má þá ætlast til, að við höfum vit fyrir okkur, bændurnir, og styðjum ekki að því, sem okkur þykir ljótt.

Haldór. Það er nú raunar satt. Eg sè, að þú hefur rètt að mæla. En segðu mèr nú, hvernig því er eins varið um annað, til að mynda ágirndina?

Jón. Það sýnist nú, að minnsta kosti, fyrst ekki eins hægt að venja mann af að vera ágjarnan, og það er nú líklega ekki svo hægt. En hvað köllum við ágirnd hjá presti og sýslumanni?

Haldór. Það er auðvitað, við köllum það ágirnd að þykjast aldrei vera nógu ríkur, fá nóg

laun eða kaup fyrir verk sín, og það er sama, hjá hverjum það er.

JÓN. Það er satt, sama er það hver í hlut á. En við erum nú að tala um prestana. Okkur þykja þeir ágjarnir, þegar þeir þykjast aldrei fá tekjur sínar vel útilátnar, og vilja alt af fá meira og meira, en þeir eiga. En hvað kemur nú til þess, að við gjöldum þeim þá ekki, rètt eins og þeir eiga, og hvorki meira nè minna? Ef við gerðum það, og lètum þá vita, að við vissum, hvað við ættum að gjalda, þá hættu þeir líklega að fást um gjaldið, að það væri ekki, eins og það á að vera, og ekki held eg þeir tækju þá meira, en þeir ættu; því þá sæu þeir ógæfuna vísa. Þessi ágirnd presta og sýslumanna, sem við tölum nú um, er nú eptir mínu áliti sprottin af því, að við bændurnir höfum alt af verið að rembast við að gera þá ánægða, og hvorki vitað nè reynt til að vita, hvað við ættum að rèttu lagi að gjalda, og því síður sýnt þeim fram á, að ef þeir gerðu sig ekki ánægða með það, sem þeir ættu, þá fengju þeir ekkert. Við höfum þar á móti, sumir hverjir, tekið upp á öðru, sem er enn verra, og það er það, að við

höfum svikið gjaldið, eða þá eigi hirt um að vanda það, eins og vera ætti. Af þessu sprettur nú óþakklæti og rígur á milli þess, sem geldur og hins, sem gjaldið tekur, og úr því svo er komið, er ekki við góðu að búast.

Haldór. Það er raunar satt, sem þú hefur nú sagt núna, en það eru ekki allir, sem taka eptir því, og getur verið, að sumir vildu ekki kannast við, að það væri satt, þó þeim væri sagt það og sýnt. Eg, fyrir mitt leyti, vildi allra helzt geta goldið hverri stètt, það sem hún á með rèttu, og hvorki meira nè minna. Það fer líka æfinlega bezt, að hvor eigi sitt, því þá fær skollinn ekkert.

Jón. Það er satt. En eg trúi nú ekki öðru, en bæði þú og aðrir geti með hægu móti vitað, hvað hverjum á að gjalda. Eg skal annars segja þèr, hvernig eg hef farið að því, að vita það. Eg hef spurt prestinn að, hvað eg eigi að gjalda sýslumanni, en sýslumann, hvað eg eigi að gjalda presti, og það hafa þeir sagt mèr, svo eg geld þeim æfinlega rètt, og þeim dettur ekki í hug að fást neitt um það við mig.

Haldór. Þetta er ræfils gott bragð, það ættu allir að hafa.

Jón. Nei, þess þarf nú ekki. Nú má fá tilskipanirnar um það, þegar maður vill, og ef þú vilt reyna að fá menn til þess með mèr og þèr, að gjalda hverjum það, sem hann á, og ekki meira nè minna, og gjalda það í góðum aurum, þá skal eg fá nokkrar af þessum tilskipunum.

Haldór. Já, það vil eg feginn; eg held mörgum, mætti þykja vænt um að vita það, og eg trúi því ekki, að menn vilji ekki verða með okkur í þessu. Eg hef annars vitað ljótt dæmi upp á óþakklæti hjá presti einu sinni. Það stóð svo á að einn sóknarbóndinn kom með leigur til hans, sem hann átti að gjalda honum. Prestur tók við og vóg leigurnar. Þá spurði bóndinn, hvort þær stæði heima, og prestur sagði: „já, þær standa rètt heima“. „Svo“, segir bóndinn, „er þá ekkert fram yfir?“ „Jú, fjórar merkur“, segir prestur.

Jón. Já, þesskonar sögur höfum við nógar til. En eg vildi, að við bændurnir, reyndum til að gera, sem hreinast fyrir okkar dyrum, og sæum svo, hvernig fer. En við skulum nú gera

það, sem við getum, til að laga þessa galla, hjá prestinum okkar. Eg er viss um, að það væri sannnarlegt góðverk, ef okkur tækist það; því flýgur fiskisagan og margt heyra stiptsyfirvöldin, enda þó þau skipti sèr ekki af öllu.

Haldór. Já, eg skil hvað þú fer. Eg hef líka heyrt, að það væri einhverstaðar gerð merki*) við nöfn þeirra presta, sem drekka, og það gildir líka einu. Það er verst, að merkin þýða ekkert, og þeir fá eins brauð fyrir það.

Jón. Þá er nú öllu til skila haldið, ef svo er. En það er nú annars vonandi, að úr því skólinn er nú kominn í bindindi, þá smá batni nú með drykkjuskapinn. En það er svo lángt samt, þángað til að allir komast í bindindi, að það ætti hver sveit að gera sitt til að venja menn af drykkjuskap hjá sèr; því eins má venja aðra af því, og prestinn.

Haldór. Því ekki það? það er nú svo sem auðvitað, að bæði má það, og á það að vera.

---

*) Það er algeing saga víða um landið, að stiptsyfirvöldin hafi gert merki við nöfn þeirra presta, sem drekka, en þessi saga er eigi sönn, og af því vissi eigi höf., fyrri en eptir að hann ritaði samtal þetta.

(Víkur sèr að Árna, sem er að lesa í bók). En hvaða bók ert þú að lesa í, Árni minn?

Árni. Það er ein nýa bókin hans pabba, það eru kvæðin hans Bjarna amtmanns.

Haldór. Hvað, er það satt? Eru þau komin á prent? Það er víst skemtilegt sumt í þeim.

Árni. Já, þar er margt skrítið innan um, en eg skil ekki sumt af því.

Haldór. Svo, það er nú alt lakara. Eg hef annars heyrt sumt eptir Bjarna áður fyrri, og það var fallegt, að mèr þókti. En ætla það sèu öll kvæðin hans þarna í?

Árni. Það veit eg ekki, þó held eg það.

Jón. Þau eru þar víst öll, eða flestöll. Það getur verið, að sumum lausum vísum hafi verið slept. Eg ímynda mèr þeir hafi ekki kært sig um að taka alt.

Haldór. Það þykir mèr þó galli, ef þeir hafa ekki prentað alt eptir hann.

Jón. Ekki veit eg það. Eg held, að sumar vísur sè ekki vert að prenta, og skáldin gera líklega marga vísu, sem þeir ætla ekki til að haldið sè á lopt. Eg ímynda mèr, að því sè nokkuð líkt varið, og fyrir öðrum mönnum, þeg-

ar þeir tala, að sumt er látið fjúka, sem ekki er ætlað til að eigi sèr lángan aldur. Eg get aldrei fallizt á það, að það hefði nú átt að prenta sumar vísurnar hans sèra Jóns Þorlákssonar, sem prentaðar hafa verið, og eins er með Bjarna. Eða sýnist þèr nú það ekki líka, þegar þú gáir að því, Haldór, að vísur, sem gerðar eru til að láta hlæa að sèr í það og það skiptið, eða þá í reiði, eða einhvern veginn svo, eigi ekki að vera prentaðar; því opt getur það þó verið, að skáldið vildi aldrei hafa gert þær, þegar frá líður?

Haldór. Jú, eg held eg fallist á það líka, að það sè ekki vert að prenta sumt eptir skáldin, eða altènd ekki fyrri, en þeir eru dauðir, sem það er gert um. En hvað kosta kvæðin hans Bjarna?

Jón. Þau kosta einn ríkisdal svona innbundin.

Haldór. Svo, kosta þau einn ríkisdal? dýrt er það!

Jón. Ójá, nokkuð svona. Það er líka mikið fyrir því haft að prenta bækur, það er von þær kosti mikið.

Haldór. Já, víst er um það, mikið er fyrir því haft, enda eru nú flestar bækur dýrar.

Jón. Já, en það er nú eins um bækur og annað, eða ætti að vera svo, að maður ætti að meta þær eptir gæðum; því betra er að borga hlutinn dýrara, og það sè þá eitthvert gagn í honum á eptir.

Haldór. Satt er það. En hvernig á maður þá að dæma um bækur, hvort þær sèu dýrar eða ódýrar, því ekki veit maður altènd, hvernig efnið í þeim á við mann, þegar maður kaupir þær.

Jón. Það er nú alt torveldara, að segja það svo áreiðanlega, hvernig maður eigi að dæma um dýrleika hverrar bókar. Til þess þarf maður fyrst að þekkja dýrleika á prentun, og kostnað og umsvif við hana, en það þykist eg sjá, að mikill munur verði að vera á því, hvað fljótlegt, eða seinlegt sè að prenta bækurnar, og að það sè mikill munur á, hvað vandasamt það er. Eg hef líka komið í prentsmiðjuna einu sinni, og spurt að því, og sýndu þeir mèr það, prentararnir, að þar var mikill munur á. Þeir sýndu mèr, til að mynda, að það var munur á að prenta bók í stóru broti eða litlu, með smáu letri eða

stóru, þètt eða gisið, og svo margt fleira, sem eg man ekki. En eg man það, að eg sá þá, að það var von, þó það væri mikill munur á bókum hvað dýrar þær eru. Þá er líka pappírinn misgóður, og þess vegna misdýr. Eg hef annars þá reglu til að sjá svona hèr um bil, hvert ein bók er mjög dýr, að eg ber hana saman við aðra, gæti síðan að *pappírsgæðum, letri, arkafjölda, broti og þèttleik* á báðum. Við skulum nú til dæmis skoða hèrna nokkrar bækur. (Hann tekur nokkrar bækur ofan af bókahyllunni). Skoðaðu nú, hèrna eru nú „Fornyrði Páls Vídalíns." Þau kosta 64 skk. heftið, og hvað eru nú margar arkir í hvoru (hann gætir að); þær eru 10; svo þá kostar örkin 6 skildínga, ef kápan og innfestíngin kostaði 4 skk. Brotið er stórt og letrið sæmilega þètt, og fallegt, og pappírinn góður. En nú er hèr önnur bók (hann tekur aðra bók); það eru „Fèlagsritin nýu", seinasta árið. Letrið og pappírinn dágott, brotið stórt nokkuð, og kosta 80 skk., en arkirnar eru 16. Örkin yrði þá á 5 skk., þegar ekki væri reiknuð myndin nè kápan. Nú skulum við bera kvæðin saman við þetta. Þau eru vönduð að letri og pappír. Brotið er frem-

ur lítið, arkirnar 10 að ótöldu titilblaði, formála og registrum, og þetta kostar 1 ríkisdal bundið. Örkin yrði þá nærri hálfur tíundi skildíngur, ef ekki er reiknað bandið. Kvæðin eru því dýr í samanburði við hinar bækurnar. Annars hef eg heyrt, að það þyki ekki hægt að selja örkina prentaða minna en á 4 skk., enda má það nú ekki mikið heita, og það verð er á „Gesti Vestfirðíngi", og fleirum bókum. En það er auðvitað, að þó ein bók sýnist nú dýrari en önnur, þegar svona er metin hver örk, þá er svo margt annað athugavert þar við, að það er ekki hægt að segja.

Haldór. Já, eg sè, að það er ekki fyrir alla, að geta dæmt um það með vissu, hvort ein bók er of dýr eða ekki. Það er eins og annað, það þarf nokkuð til þess.

Jón. Það er satt. Eg vil annars heldur, að bókin sè dýrari, eins og eg sagði áðan, og hún sè að gagni á eptir, heldur en ódýr, og einkis virði. Maður má ekki heldur horfa í það, að kaupa nokkuð dýra bók, ef maður veit, að maður getur haft nokkurt gagn af henni. Eg segi

nú fyrir mig, heldur vil eg kvæðin svona dýr, en rímur, sem væru miklu ódýrari.

Haldór. Ekki verður því þó neitað, að gaman er að rímum.

Jón. það kann að vera fyrir þá, sem skilja þær. Eg á svo bágt með að skilja þær allflestar, þær eru svo eddukendar, og mèr þykir ekki neitt gaman að því, sem eg hef ekki vit á, og skil ekki.

Haldór. Eg verð nú líka að játa það, að eg skil þær ekki nærri allar, en mèr þykir þó gaman að heyra vel kveðið.

Jón. Æ, ekki þykir mèr það nú svo skemtilegt; þetta sífelda suð, eins og vindsuða; það svæfir mann á endanum; eða þessir kvæðahnikkir og rokur! Nei, rímur eru að mínum dómi óþörfustu og verstu bækurnar.

Haldór. (Lítur til Guðrúnar). Ertú ekki á mínu máli með rímurnar, kona góð, þykir þèr ekki gaman að, þegar vel er kveðið?

Guðrún. Jú, gaman þykir mèr að því. Eg hef nú stundum nefnt það við hann Jón minn, en hann er sjálfur einginn kvæðamaður, enda

þykir honum ekkert gaman að, þó kveðið sè, og aldrei fæ eg að láta kveða.

Jón. Segðu ekki að tarna, hjartað mitt. Manstu ekki í vetur, þegar eg fèkk hann Jón saung til að kveða hèrna heilt kvöld; var mèr ekki skemt þá? hvað minnir þig?

Guðrún. Jú, eg man það vel. En það er nú ekki göfugur kvæðamaður, skollinn sá. Haldór, þekkirðu hann?

Haldór. Svona í sjón, en aldrei hef eg heyrt hann kveða.

Guðrún. Það væri þá gustuk, að lofa þèr að fá bragð af því. (Við Jón). Heyrðu, hjartað mitt, má eg ekki biðja hann Þórð að kveða eptir honum eitt erindi fyrir hann Haldór?

Jón. Jú, ekki vil eg hafa það af honum Haldóri.

Guðrún. (Við Þórð). Viltu ekki gera svo vel og kveða núna eina bögu eptir honum Jóni saung, Þórður minn?

Þórður. Jú, en eg veit nú ekki, hvort það tekst núna. (Hann hættir að flètta, sezt niður á rúmið eitt, rær, lygnir augunum, heldur vinstri hendi fyrir eyranu, en í bægri hendinni heldur hann á bókinni. Nú fer

hann að kveða, en fólkið alt veltist um af hlátri, og Þórður getur ekki kveðið nema 2 eða 3 erindi, þá fer hann sjálfur að hlæa).

Jón. Hvernig lízt þèr nú á, Haldór minn? þarna er nú sýnishornið af kvæðamanninum, sem flestum skemtir hèr um sveitir, og sem vagar bæ frá bæ allan veturinn með rímnabagga til að kveða.

Haldór. Já, en það má ekki miða við hann samt, því það eru margir miklu betri.

Jón. Það kann að vera, eg vil ekki þræta um það. En samt held eg, að hitt sè eins góð skemtun, og eins notadrjúg, að heyra lesið í bókum, sem maður skilur, og eitthvað fróðlegt er í.

Haldór. Það held eg nú líka. En hvaða bækur lestu helzt?

Jón. Sögubækur, og ýmsar bæði fræðibækur og skemtibækur; til að mynda: *Fjölni, Fèlagsritin nýju, Íslendíngasögur, Noregskonúnga-sögur, Mannkynssöguna, Gest Vestfirðíng, Reykjavíkurpóstinn, Ársrit presta,* og svo ýmislegt annað.

Haldór. Eg þekki nú ekki nema sumt af

þessum bókum. Eg þekki sögurnar allar, þær á eg. En hvaða *Mannkynssögu* talaðirðu um? hana þekki eg ekki.

Jón. Hún er ný til þess að gera, og útlögð úr dönsku. (Hann nær henni og sýnir honum). Skoðaðu, hún er þetta. Hún kostar einn ríkisdal, og er 21 örk, svo örkin í henni verður þá á rúma 4 skk., og það er gott verð. Hana ættirðu að fá þèr; hún er bæði fróðleg og skemtileg, og sá sem veit hana alla, hann veit æði mikið í kríngum sig.

Haldór. Já, mèr lízt ekki svo illa á hana. En hvað var það nú aptur fleira, sem eg þekti ekki? Fjölni þekti eg; eg á hann, og mèr þykir nú vænt um hann.

Jón. Já, það er nú bók, sem við ættum að halda upp á bændurnir, því hann sýnir okkur fram á margt, sem við þurfum að vita. Sama er að segja um Fèlagsritin nýu.

Haldór. Já, það var skömm að því, hvað slæmar viðtökur hann Fjölnir fèkk hjá alþýðu, en það var prestunum að kenna. Þeir níddu hann svo skelfilega niður; það átti ekkert að vera nýtt í honum.

Jón. Já, eg held eg muni eptir ólátunum í þeim með hann. En hann fer nú að rètta við úr þessu, vona eg, og það ætti líka að vera svo, því þó eitthvað kunni nú að vera svæsið í honum, eða óþarft fyrir okkur bændurna, þá er þó Fjölnir ein besta bókin okkar.

Guðrún. Mikið hælirðu honum Fjölni núna, hjartað mitt. Það er auðsèð, að ykkur karlmennina tekur sjaldan svo sárt til okkar kvennfólksins. Eg man þá eptir nokkru í honum, sem eg get aldrei fyrirgefið þeim, sem það hefur gert — og það er hún Halla. Manstu eptir henni, Haldór?

Haldór. Já, eg man eptir henni, og eg skal aldrei lá ykkur það, kvennfólkinu, þó ykkur þyki hún ljót, því það á að vera, svo þið forðist að vera eins og hún er.

Jón. Já, það er satt; það veitir ekki af því, að manni sè sýnt það ljóta, svo maður þekki það, og geti forðast það, enda er nú Halla að minni hyggju til aðvörunar. Eg ímynda mèr, að hún sè sett, sem dæmi upp á það, sem ekki á að vera, en er þó, ef til vill, ekki öldúngis dæmalaust.

Guðrún. Nú er hún öldúngis dæmalaus, að minnsta kosti, hèr á landi. Eða helldurðu, að nokkur flenna sè svo ósvífin, að bjóða manni, sem hún hefur aldrei fyrri sèð, upp yfir alla út í fjós með sèr. Hún gerir það upp yfir alla, það er óþolandi.

Jón. Ætli hún geri það; mig minnir, að hún sè ein hjá honum Markúsi; skyldi það ekki vera svo?

Guðrún. Eg efast mikillega um það.

Jón. Eg skal gá að. (Tekur Fjölni og flettir upp Bókasölunni). Hèrna kemur það nú. Það er satt, það stendur hèr ekki, að þau sèu tvö ein. Það á þá líklega ekki að vera. En nú sè eg hvernig það er; þau eru bæði út af fyrir sig, og þetta á að vera hljóðskraf, og það er það, sem eg finn nú að, að þess var ekki getið.

Guðrún. Þetta getur verið, eg get ekkert um það sagt, en aldrei held eg með honum Fjölni fyrst hann hefur þetta skrýmsli í för með sèr.

Jón. Ekki held eg Fjölnir sè verri fyrir

það, þó hann sýni hvað ekki á að vera, og það gerir hann hèr. Þetta gera líka prestarnir.

Haldór. (Hlæandi). Og eru þeir ekki lastaðir fyrir það. En mig lángar til að heyra þitt álit um *Ársrit presta*, Jón minn!

Jón. Það er nú ein bókin, sem ekki hefur orðið mjög vinsæl, og heldur held eg að við höfum dæmt hana óvægilega bændurnir.

Haldór. Eg held nú líka, að hún eigi harða dóma skilið bókin sú. Það er kver sem ekki er á marga fiska.

Jón. Nei, nei, eg veit hvernig það er. Eg held það sè þó margt mikið gott í því; til dæmis: að prestar geri fèlagskap með sèr, og hvetji sig til að leggja niður ýmsan óvana. Þá þykir mèr það líka góð tilraun af þeim að reyna að sýna alþýðu, hvaða gagn hún hafi af því að lesa alþíngistíðindin. Greinin um saung í kirkjum er að mínu áliti ólaglega búin, og hún hefði getað verið góð, ef hún hefði komið fram öðruvísi. Hálfyrðið læt eg vera; mèr finnst það lýsa æði mikilli óánægju. Ræðan um drykkjuskapinn er nú útlögð, og vel held eg hún eigi við textann. Þetta er nú svona hèr um bil mitt álit um fyrra

„Presta ritið". Mèr þykir margt gott í því, og þó ekki væri annað, en það, að með því að sýna hugsanir sínar á prenti, þá neyða prestarnir okkur bændurna til að þekkja sig. Síðara ritið þykir mèr líka fallegt innan um; til dæmis: um kirkjurækni. En eg vil nú helzt ekki tala meira um þessi rit; það er nóg og of mikið búið að tala um þau og dæma.

Haldór. Eg kann dável við það, sem þú hefur nú sagt, en varla held eg kaupi þó ritgrey þetta optar þó það komi.

Jón. Ekki veit eg, nema eg geri það, að kaupa það, enda þó mèr þyki það vel dýrt, þar sem örkin í því fyrra er á 6 skk., en því seinna nærri því á 7 skk.

Haldór. Já, sleppum því. Þá er Gestur Vestfirðíngur mun betra rit.

Jón. Já, það er satt. Hann líkar mèr dável.

Haldór. Já, mèr líkar hann mæta vel, og enda betur, en Reykjavíkurpósturinn, og er hann þó í mörgu tilliti ágætur.

Jón. Gestur er fjörugri, og smáskrýtnari, enda er nú, að eg held, hægra að gefa út 6 arkir á ári, en eina á mánuði. Mèr þykir Reykja-

víkurpósturinn daufur nokkuð, og ekki nógu fjölskrúðugur, og mèr líkar það ekki heldur, að hann hefur ekki dóma, og getur ekki um málaferli manna.

Haldór. Það væri þó nógu vænt. Það gerði Klausturpósturinn meðan hann var, enda þykir mèr hann nú bezta tímaritið okkar; ertu ekki á því með mèr?

Jón. Ójú, það er eg. Mèr þykir nú annars flestöll ritin hans Stefensens ágæt, og fremri mörgum öðrum, þó nýrri sèu.

Haldór. Já, honum var nú óhætt. En eg ætla nú, að bregða mèr út snöggvast, og vita, hvernig veðrið er.

Jón. Eg skal koma með þèr, til að vísa þèr leið; þú villist kannske annars.

Guðrún. Gáðu að um leið hvað framorðið er, hjartað mitt. (Haldór og Jón fara út).

Guðmundur. (Vaknar og rís upp, og þurkar úr augunum á sèr). Sigga, hvar eru skórnir mínir?

Guðrún. Ertu vaknaður, Gvendur minn? viltu ekki sofa dálítið leingur?

Guðmundur. Nei, eg ætla að koma ofan snöggvast. Er hann Haldór farinn?

Guðrún. Nei, þeir brugðu sèr út núna, bændurnir.

Sigríður. (Rèttir honum skóna). Hèrna eru skórnir þínir, eg var að gera við þá. (Guðmundur tekur við þeim, og fer að binda þá á sig).

Þórður. Hvernig hefur þig dreymt í kvöld, lagsmaður?

Guðmundur. Svona, nógu vel. Mig dreymdi, að eg var að binda hey í reipið þitt, og sleit það.

Þórður. Ekki nema það. Eg sá þú áttir eitthvað bágt í svefninum.

Guðrún. Hvernig fer hjá þèr núna, Dóra mín, lof mèr sjá hjá þèr. (Hún tekur við prjónunum af henni og lítur á). Það fer vel, en gættu nú að, senn máttu fara að taka úr.

Sigríður. Er eg ekki búin að tæa nóg í bráð? á eg ekki að fara að kemba?

Guðrún. Jú, blessuð, hættu nú að tæa. Eg er líka rètt búin, með kemburnar.

Jórun. Þórður viltu ekki rètta mèr snældu uppá hyllunni á bak við þig?

Þórður. (Fær henni snælduna). Jú, taktu við.

Guðrún. Komstu hvergi í dag, Gvendur minn? frèttirðu ekkert nýtt?

Guðmundur. Ójú, eg kom að Seli, og spurði þar eptir kindum. Presturinn okkar var þá kominn þar að húsvitja. Eg sá hann, en ekki veit eg, hvort hann hefur tekið eptir mèr, því hann var kendur, góði maður.

Þórður. Það er nú ekki ný bóla.

Guðrún. Heyrið þið nokkuð, börn; ėg held þið megið fara að lesa upp; hann kemur víst híngað, áður en lángt um líður.

Árni. Ef hann kemur ekki á morgun, þá er mèr nóg; eg er lángt kominn að lesa upp.

Haldóra. Ekki kvíði eg svo mikið fyrir honum. Það er verst ef hann verður drukkinn, þegar hann kemur; því hann er þá alt af að klappa mèr og kyssa.

Þórður. (Hlæandi). Eg held það sè nú ekki margt að því, að kyssa hann; hann sem er svo ósköp góður við þig, og þykir svo vænt um þig.

Haldóra. En mèr er illa við brennuvínslyktina.

Guðrún. Segirðu ekki fleira nýtt, Gvendur minn?

Guðmundur. Jú; hann Jón á Mýri hefur nýlega eignazt barn.

Guðrún. Segirðu satt? og hver er móðirin?

Gudmundur. Hún heitir Katrín, ef þið kannizt við hana.

Sigríður. Hún Katrín í Ausu?

Guðmundur. O jæa, satt er orðið.

Guðrún. Ja, þar fóruð þið með það.

Þórður. Það segi eg með. En eg held eg geti vorkent greyinu honum Jóni.

Guðrún. Jú, það held eg geri líka! Eg held það sè jafnræði að tarna. Það væri heldur sveitin, sem maður gæti vorkent.

Þórður. Hann Jón lætur nú krógann sinn naumast fara á sveit.

Guðmundur. Það held eg líka; hann ætlar að koma því fyrir hjá honum Sveini í Ausu, og verða þar vinnumaður eða lausamaður.

Guðrún. Ætli hann ætli þá ekki líka að eiga hana Katrínu?

Jórun. Það ætti hann nú að gera.

Sigríður. Þá held eg hún yrði nú montin samt, ef hún yrði kona, hún Katrín.

Guðmundur. Eg held hún mætti nú það líka. (Hann fer ofan. Rètt á eptir koma þeir upp bændurnir).

Guðrún. Hvernig er veðrið, hjartað mitt, og hvað er framorðið?

Jón. Veðrið er gott, heiðríkt og nærri logn. Stjarnan er nærri komin í miðmundastað.

Guðrún. Svo, það er gott; eg hugsaði það væri orðið miklu fremur.

Jón. Sefur hann enn, hann Guðmundur? ætli hann hafi ekki vantað í kvöld?

Guðrún. Það veit eg ekki. Hann er annars nýfarinn ofan, og kemur víst bráðum aptur.

Jón. Jæa, það er gott. Eg tala þá við hann, þegar hann kemur aptur.

Guðrún. Hann segir okkur, að presturinn sè farinn að húsvitja; hann var í dag á Seli.

Jón. Jájá; hann kemur þá híngað bráðum. Hvernig lízt ykkur á það, börn?

Haldór. Eg ætla að vona hann Árni litli þurfi ekki að kvíða. En er ekki fræðahrollur í þèr, Haldóra litla?

Þórður. Nei, það er ekki fræðahrollur, heldur kossahrollur. Henni er svo illa við, að presturinn kyssi sig.

Jón. Svo? viltu ekki, að presturinn kyssi þig, Dóra mín?

HALDÓRA. Ekki, þegar hann er drukkinn, það er þá svo slæm af honum lyktin.

GUÐRÚN. Hann sagði nú meira í frèttum, en þetta, hann Guðmundur. Húu Katrín í Ausu er búin að eiga barn, og Jón á Mýri er faðirinn.

HALDÓR. Já, já, nokkuð fær hreppstjórinn þar að gera.

GUÐRÚN. Ekki veit eg nú það. Hann Jón ætlar að koma barninu fyrir hjá honum Sveini í Ausu, og verða þar svo sjálfur vinnumaður eða lausamaður.

HALDÓR. Ekki batnar nú. Það er annars ljótt um þessa lausamenn, Jón, hvað þeir eru alt af að fjölga.

JÓN. Já, satt er það. En það er nú okkur að kenna, bændunum; því það sjá allir, að ef við hilmuðum ekki yfir þá, þá gætu þeir ekki verið til; því í rauninni má það ekki.

HALDÓR. Það er nú satt. Það er eins og annað afskiptaleysið okkar bændanna, og samtakaleysið, að við skulum ekki gera alt okkar til að eyða þeim.

JÓN. Það er satt. Við þykjumst ekki geta feingið neina vinnukind, og það er nú nokkuð

til í því, og kennum yfirvöldunum um, að lausamennirnir sèu til, en gætum ekki að því, að það er sjálfum okkur að kenna.

Haldór. Það er meira, en satt, og þó hefur okkur nú verið sýnt fram á það í Reykjavíkurpóstinum, en það dugir ekki, við skiptum okkur ekki af því.

(Guðmundur kemur inn).

Jón. Var alt hjá þèr í kvöld, Gvendur minn?

Guðmundur. Já, alt varð það á endanum.

Jón. Það er gott. En fer nú ekkert aflaga hjá þèr núna?

Guðmundur. Ó nei, ekki nema ærnar eru hættar að vilja síðslægjuna í stóru tóptinni.

Jón. Þú verður þá að gefa þeim betra ef betra er til.

Guðmundur. Já, eg skal reyna það.

Haldór. Segirðu ekki annað í frèttum, Guðmundur, en þetta um hann Jón og hana Katrínu, og um prestinn, að hann er farinn að húsvitja?

Guðmundur. Þykir þèr það nú ekki nóg af mèr, að segja það í frèttum. Eg kem ekki víða, en fjöllin hèrna segja ekki mikið í frèttum,

nema ef maður verður áskynja af þeim um einhverja lágfótuna. Þú ættir heldur að segja mèr frèttir, Haldór, því þú ert leingra að kominn. Það er líka siður minn, að segja eingum frèttir, nema hann segi mèr þær fyrst.

Haldór. það er ekki svo galinn siður! En, bíddu við! Ætlarðu þá að segja mèr frèttir á eptir ef eg segi þèr fyrst?

Gudmundur. Til er það.

Haldór. Jæja. Eg segi þèr það þá í frèttum, að Húss- og bú-stjórnar-fèlagið í suðuramtinu launar vinnufólki dygga og trúa þjónustu, ef einhver skarar fram úr í því. Ertu nú ekki ánægður með þessar frèttir?

Gudmundur. Jú, hjartans ánægður. Eg sè það er gott að vera leingi dygt hjú. En nú skal eg segja þèr frèttir aptur: fèlagið, sem þú nefndir, launar þeim bónda, sem skarar fram úr í dugnaði í búskap og jarðarækt eða jarðabót.

Haldór. Það eru mikið góðar frèttir. Þú sèr þá, að bæði húsbændur og hjú geta feingið laun fyrir framúrskarandi dugnað í sinni stètt. En eg man enn frèttir: einginn má vera lausamaður.

Þórður. (Gellur við). Það er að segja svo á beri.

Jón. Hvorki í laumi nè hins vegar.

Guðmundur. Gott er það. En hjúin mega samt hafa vistaskipti, ef þeim líkar ekki við húsbændurna.

Haldór. Það er nú sjálfsagt. (Við Jón). Nú, hann er sæmilega vel að sèr, hann Guðmundur. Eg hefði aldrei trúað, að hann væri svona orðfær, og heima í bókum.

Jón. Jú, hann heyrir alt, sem eg læt lesa, og af því er hann svona. Þarna sèrðu nú, hvort maður hefur ekki meira gagn af þesskonar skemtun, en af rímnabullinu.

Haldór. Eg vissi nú það raunar fyrri. En það er nú um fólkið hjá mèr, að það vill ekki hlusta á, nema sögur eða rímur, og þetta lærir þó einginn af því.

Jón. Jú, það vill það hjá mèr. Eg skal segja þèr, hvernig eg fer að fá það til þess. Eg læt nú hann Árna litla optast nær lesa, svo þegar eitthvað merkilegt eða umtalsvert kemur fyrir, tala eg um það við fólkið, og kem því í skilnínginn um það, eins vel og eg get, en hann

hvílir sig á meðan að lesa. Með þessu móti hefur maður miklu meira gagn af því, sem með er farið, og undir eins meiri skemtun. Eg er alt af á því, að það sè fyrir mestu, að lesa vel, en ekki mikið; að vita, hvað með er farið, en keppast ekki við að lesa sem mest. Það er líka hentast í sveitinni, þar sem svo er örðugt að fá sèr bækur.

Haldór. Eg ætlaði að fara að segja það. Það er ekki gaman að fá nógar bækur til að lesa; þær eru svo dýrar að kaupa þær, og svo ílt að fá þær til láns.

Jón. Satt er það, en mikið má nú lètta sèr bókakaupin, eins og annað. Eg hef nú t. a. m. farið svo að, að eg legg saman við hann Davíð, nábúa minn, og kaupi bækur í fèlagi við hann, svo látum við þær gánga á milli okkar og lesum þær til skiptis, og ef okkur lángar til að eiga einhverja bók báða, þegar við erum búnir að lesa hana, þá kaupum við sína hvor.

Haldór. Þetta sè eg er mikið gott ráð, en bezt er það fyrir þá, sem eru hvor nærri öðrum. Annars hef eg opt verið að hugsa um að stínga

upp á lestrarfèlagi hèrna, eins og sumstaðar er. Hvernig lízt þèr á það?

Jón. Mèr lízt mikið vel á það, ef maður getur feingið þá menn, sem lið er í, til að sjá um það og geyma bækurnar.

Haldór. Það er nú sjálfsagt, það yrði að vera, og það er nú optast prestur og hreppstjóri.

Jón. Já, en misjafnlega getur það nú farið, þegar þá verða prestaskipti. Þó álít eg, að þesskonar fèlög sèu mikið góð, ef þau kæmust á.

Haldór. Það finnst mèr líka, en eg ætla nú samt að reyna að fara eins að og þú, og leggja saman við einhvern.

Jón. Það sýnist mèr líka fult eins gott. Maður á þá bækurnar sjálfur. En eg skal líka segja þèr annað, sem mèr hefur reynst mikið vel, og það er það, að spyrja mig fyrir um bækur hjá einhverjum lærðum manni, sem vit hefur á bókum, og heyra álit hans um þær, áður en eg hef keypt þær; því það vill opt til, að maður getur haldið, að það sè bezta bók fyrir sig, sem ekki er það, og iðrast svo á eptir, að hann hefur keypt hana. Eg tek til dæmis „Fornyrði Páls Vídalíns“. Þau eru ekki nærri því eins

góð fyrir mig, og eg ímyndaði mèr, áður en eg las þau; því það er svo mikið í þeim, sem eg skil ekki.

Haldór. Það er satt, mèr líkar ekki sú bók; hún er ekki fyrir almúga, til þess að hafa vel not af henni. En ertu ekki á því með mèr, að þær bækur, sem landar okkar í Kaupmannahöfn gefa út, sèu vel kaupandi fyrir hvern mann?

Jón. Jú, það held eg nærri því. Að minnsta kosti núna sem stendur; því allir þessir úngu menn, sem eru að læra, rita það, sem þeir halda að við getum haft not af bændurnir; það lítur svo út, sem þeim sè þá um það hugað, að efla hag okkar bændanna. En það þykir mèr galli á þeim, að þegar þeir eru komnir híngað aptur, gera þeir annaðhvort ekki neitt, neinum til lofs nè dýrðar, eða það verður alt fult með sèrplægni og nápínuskap.

Haldór. Það hefur mèr líka opt fundizt, og ekki skilið í því, og skil ekki enn.

Jón. Eg held þessi breytíng komi af því, að embætti þeirra eru svo örðug, að þau leyfi eingar frátafir, og þeir neyðast þá líka til að

sökkva sèr ofan í búskapinn, og veitir þó ekki af sumum hverjum.

Haldór. Það er líklega líka svona, eða það verður ekki gott að skilja í breytíngunni, sem á þeim verður.

Guðrún. Nú held eg það sè mál komið að fara í fjósið stúlkur mínar.

Sigríður. Já, það verður að vera. (Stendur upp). Eigum við ekki að koma Jóa mín?

Jórun. Jú, eg er til. (Þær fara).

Haldór. Eitt þarf eg enn að minnast á við þig, Jón minn! Eg verð að hafa alt í sama orðinu, við finnumst svo skjaldan.

Jón. Hvað er það? Eg er altènd fús á að heyra.

Haldór. Það eru vegirnir. Hvernig heldurðu það væri bezt og hægast að bæta þá. Það er nú einginn, sem um þá hirðir, þó skömm sè frá að segja, og hèrna hjá okkur má nú varla heita að fært sè innan um sveitina.

Jón. Já, það er nú grátlegt til þess að vita, hvað vegirnir eru vanhirtir, og það er mál sem um þyrfti að tala á alþíngi. Eg er nú ekki fær um að segja, hvernig bezt væri að bæta

vegina, en eg get þó sagt þèr, hvernig mèr sýnist það geta orðið kostnaðarminnst. Eg vil, að margir bændur eða jafnvel allir í hverri sveit tækju sig saman, og bættu og ryddu vegina í sveitinni, þá gætu þeir nú orðið góðir.

.Haldór. Já, eg er nú á því líka. En mèr finnst það ekki rètt, að láta dreingi og únglínga gera það, eins og mörgum hættir við; það ættu að vera fullkomnir menn, og skynsamir.

Jón. Já, það er nú auðvitað. Þeir þurfa bæði að hafa vit og krapta til að ryðja. Menn ættu ekki heldur að grafa vegina niður, eins og alt af hefur verið gert, heldur ættu menn að hækka þá upp, svo vatnið skemmi þá ekki strax á eptir. Það skyldi sannast, að væri svo að farið, mundu vegirnir endast betur, en þeir gera.

Haldór. Eg sè það nú líka að þetta væri betra, en það yrði kostnaðarmeira, og meiri fyrirhöfn.

Jón. En það væri tilvinnandi. Svo ætti maður líka að hafa vegina sem beinasta, og leggja þá þar, sem líklegast væri að vatn rynni einna minnst á þá.

Haldór. Það er satt; það er leiðinlegt,

hvað vegirnir hjá okkur eru krókóttir. En hvernig á að fara með fjallvegina?

Jón. Þar þarf meira mannafla við, til að ryðja þá og bæta. Það ættu að vera fèlög, sem það gerðu, eins og fjallvegafèlagið var. Það er nú — því miður — liðið undir lok. En fyrst það er nú hætt, þá held eg, að maður gæti farið svo að því, að bæta einhvern fjallveg, að einhver maður tæki sig til, og skrifaði boðsbrèf, og byði mönnum að leggja nokkuð til þess, að bæta þann veg, er hann tiltæki. Boðsbrèfin ætti hann að fá aptur innan viss tíma, og á þeim ætti þá að standa, hvað hver vildi leggja mikið til vegabótarinnar, ef til þess kæmi. Svo þegar hann er búinn að sjá það, ætti hann að lýsa því yfir, hvað miklu fè hann hefur þá feingið loforð fyrir, og áliti hann það nóg til að byrja með, þá ætti hann að fá þá, er til lögðu til að velja mann, eða menn, til að sjá um alla vegabótina. Ættu þeir helzt að halda fund um það, því þá gætu þeir betur komið sèr saman um það, og alt það, er þar að lyti. En feingi hann nú eigi loforð fyrir svo miklu fè, að byrjandi væri með því, þá lýsti hann því yfir, að með

svo litlu, sjái hann ekki að byrjað verði og fáist þá eingin viðbót framar, þá yrði að sleppa því.

Haldór. Mèr lízt vel á þessa uppástúngu, og betur að menn vildu reyna hana á einhverjum fjallveginum.

Jón. Það sem bezt er við hana, er það, að maðurinn, sem fyrir því geingst, tekur ekki fyrst við neinum peníngum, heldur loforðum, og svo er alt svo opinbert, að einginn gæti þá tortrygt hann um óskilvíslega meðferð á fènu. Það er nú annars skylda sýslumanna og hreppstjóra að sjá um vegina, og er það eitt hirðuleysi þeirra, að þeir gera það ekki.

Haldór. Þeim er nú vorkun; þeir hafa nóg að gera, þó þeir sleppi því fram af sèr, sem þeir geta. Það ætti ekki heldur að þurfa að skipa manni að taka stein frá fótunum á sèr, svo maður dytti ekki um hann, þó það sè nú samt svo.

Jón. Já, og því verður að gera við því, sem er; það væri annars, ef til vill, rèttast, að það væri embætti út af fyrir sig að sjá um alla vegi. Það hefur annars verið gerð uppástúnga um vegabætur, þó einginn gæfi henni gaum.

Það var gert á embættismanna-fundinum í Reykjavík hèrna um árið, og eg er á því, að gæti henni orðið framgeingt, þá væri hún ágæt. Það er mátulegt að við skoðum hana. (Þeir taka Tíðindin frá nefndarfundinum, og skoða hana í þeim).

Haldór. Já, þessi uppástúnga er nú svona; hún er líklega góð, en hún yrði kostnaðarsöm. Mèr sýnist annars að þetta vegamál ætti að koma til umræðu á alþíngi næst; því það er svo náskylt póstgaungunum, og hvortveggja þarf umbótar við.

Jón. Það er satt. Póstgaungurnar verða vegunum samferða, og fyrst þarf að bæta vegina, þá geta líka póstgaungurnar lagazt á eptir.

Haldór. Það held eg líka. En frèttirðu ekkert með póstinum, þegar hann kom hèrna um daginn?

Jón. Nei, hann stóð ekkert við, enda varðist hann allra frètta, nema hann var að tala um skólann, sem norðlendíngar ætla að byggja.

Haldór. Þá er það satt, að þeir ætli að gera það. Það lá altènd að, en það væri nú óskandi, að það dæi ekki í fæðíngunni. Eg get ekki láð þeim það, þó þeir vilji það; því það er

ekki smáræðis kostnaður fyrir þá að koma pilti í Reykjavíkurskóla, þar sem alt er svo dýrt, auk þess, sem það gerir ekki betur, en þar sè eigandi sonur.

Jón. Það væri líklega gott, að norðlendíngar kæmu upp skóla hjá sèr, en ekki get eg trúað því, að lífið í Reykjavík, sè miklum mun dýrara, en hvar annarstaðar, þar sem alt verður að kaupa fyrir peninga hvort sem er. Það getur verið að það sè nokkuð dýrara, en víðast annarstaðar, en eg er hræddur um, að það gæti samt víða orðið dýrt. En hvernig stendur á því, að það sè ekki eigandi sonur í Reykjavíkurskóla.

Haldór. Það er svo margt, sem að því styður. Fyrst er nú Reykjavík; hana þekkja nú allir, og vita, hvernig orð hún fær. Skólapiltarnir venjast þar á spjátrúngsskap, iðjuleysi, sællífi, og svo margt, sem eg nenni ekki að vera að telja upp.

Jón. Þá er eg ekki á þínu máli núna. Fyrst er það nú margt lýgi, sem sagt er um Reykjavík, það veit eg af sögn gagnkunnugra manna, og eg held, að sá sem ekki getur

staðizt freistíngar þær, sem þar eru, hann sè ekki efni í mikinn mann, enda sèr það ekki á, að piltar, sem þar hafa verið, sèu miklu spjátrúngslegri, eða sæl-lífari, en sumir aðrir. Eg get líka varla annað haldið, en þeim sè gefið það auga, og yfirmenn skólans passi þá svo, að þeir hafi annað að gera, en spjátra sig og státa. Eg ímynda mèr helzt, að hatursmenn Reykjavíkur ljúgi mörgu um hana, eins og um skólann. Eða heyrðirðu ekki söguna, sem hèrna gekk í vor um skólapiltana, að þeir gætu ekki feingið af sèr að gánga á vaðmálsfötum, heldur væri þeir alt af á fínustu klæðisfötum?

Haldór. Jú, þessa sögu hef eg nú heyrt, og það sá eg á piltunum, sem hèrna fóru um í sumar, að ekki sá það á þeim, að þeir gætu ekki verið í vaðmálsfötum, því bæði voru þeir í vaðmálsfötum, og líka vildu þeir kaupa sèr vaðmál í föt.

Jón. Jæja, þarna sèrðu þó, hvað satt var í þessu, og þó þóktist maðurinn, sem sagði það, hafa sèð þetta, og heyrt það. En sýndist þèr þá þessir piltar, sem þú sást, vera tiltakanlegir spjátrúngar?

Haldór. Nei, ekki sá eg það.

Guðrún. Þar koma þær inn aptur, stúlkurnar; farðu ofan, Dóra litla, og segðu, að eg biðji þær að setja upp fyrir mig dropann; eg nenni ekki ofan, fyrr en búið er að lesa.

Jón. Já, það er víst orðið framorðið; flýtið þið ykkur nú niðri, svo það verði farið að lesa. Náðu bókunum, Árni minn!